# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.
gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

18. ÁRG. WINNIPEG, DESEMBER 1903. NR. 10.

## Jólasöngr til barnanna.*)

Eftir séra Valdemar Briem.

(Lag: Ofan af himnum hér kom eg.)

1. Hver er sú nótt svo björt og blíð,
sem ber af degi' um sumartíð
og andar milt og hœgt og hljótt?
Hún heitir, börn mín, jólanótt.

2. Hver er sá hljómr hreinn og skær,
á himni' og jörðu fjær og nær,
er vekr innst í hjarta hljóm?
Þér heyrið, börn mín, englaróm.

3. Hvert er það ljós svo lítið og smátt,
er logar skært um dimma nátt
og lýsir heilli heimsins þjóð?
Það heitir Jesús, börn mín góð.

4. Hvert er það gull svo skært og skírt,
sem skírra' en heimsins gull er dýrt
og dýrra' en jörð og himins her?
Það herrann Jesús, börn mín, er.

5. Hver er sú rós, er brosir blíð
og blómgvast mitt í vetrarhríð,

*) ,,Kirkjublaðið" 2, 15.

svo hennar blóm til himins nær?
Hún heitir Jesús, börn mín kær.

6. Hvert er það barn svo blítt og ungt,
sem ber svo margt og stórt og þungt
og felr heim í faðmi sér?
Það frelsari' yðar, börn mín, er.

7. Þú heilagt barn, þú lýða ljós,
þú lífsins gull og himinrós!
þér englar syngja lofsöngsljóð;
þá lofgjörð auki börnin góð.

## Fagnaðarefni jólanna.

Jólahugleiðing eftir séra Friðrik Hallgrímsson.

,,*Óttizt ekki; því sjá, eg flyt yðr gleðiboðskap um mikinn fögnuð, sem verða mun fyrir allan lýðinn; því að í dag er yðr frelsari fæddr, sem er Kristr drottinn í borg Davíðs. Og þetta sé merkið fyrir yðr: þér munuð finna ungbarn reifað og liggjanda í jötu*'' (Lúk. 2, 10--12).

* * *

Þetta var boðskaprinn, sem engillinn flutti hirðunum fyrir utan Betlehem í fylling tímans. Nætrkyrrðin var allt í kring um þá; menn voru gengnir til svefns inni í borginni; allir ferðamenn voru komnir í náttstað; og þeir gjörðu ekki ráð fyrir því að sjá aðrar lifandi verur þessa nótt en kindrnar, sem þeir áttu að gæta. Og þess vegna varð þeim bilt við, þegar allt í einu stóð hjá þeim engill drottins og dýrð drottins ljómaði í kring um þá.

En engillinn hughreysti þá með því, að koma sín til þeirra væri ekkert hræðsluefni fyrir þá, heldr kœmi hann þvert á móti til þess að flytja þeim þann boðskap, er væri hið mesta fagnaðarefni.

*Fagnaðarefni* — það er jólaboðskapr engilsins. Það var hann, þegar hann fyrst var fluttr hirðunum, fyrir mörgum öldum; það er hann enn í dag; og það mun hann verða meðan jólahátíð er haldin á þessari jörð.

Þessi boðskapr var fagnaðarefni fyrir þá kynslóð, sem heyrði hann fyrst.

Öll saga Gyðingaþjóðarinnar fram að fylling tímans stefnir að þessum eina, mikla viðburði: komu hins fyrirheitna Messíasar. Saga Gyðinga byrjar á fyrirheiti um Messías; því þegar drottinn útvaldi Abraham til þess að verða forfaðir þjóðarinnar, þá gaf hann honum þetta fyrirheit: ,,Af þér skulu allar ættkvíslir jarðarinnar blessun hljóta." Þetta sama fyrirheit ítrekaði hann við Ísak og Jakob. Og spámenn sína lét hann flytja þjóðinni hvað eftir annað dýrðlega spádóma um Messías. Í útlegð og þrautum byggði Ísrael á komu hans bjarta og glæsilega framtíðarvon. Í þessari von höfðu kynslóðir guðhræddra Gyðinga lifað og dáið. Og í fylling tímans lifðu margir trúaðir menn, sem elskuðu þessa von og þráðu hjartanlega uppfylling hennar.

Og svo efndi guð heit sín í fylling tímans; og hann lét engil sinn flytja þjóðinni þennan fagnaðarboðskap: ,,Í dag er yðr frelsari fœddr, sem er Kristr drottinn, í borg Davíðs."

Þessi boðskapr átti að vera ,,fögnuðr fyrir allan lýðinn". Allr lýðrinn átti að fagna yfir því, að nú var hinn fyrirheitni Messías kominn, — hann, sem spámennirnir höfðu spáð um, — hann, sem var von Ísraels.

En þó voru það ekki nema fáir af öllum fjölda þjóðarinnar, sem fögnuðu yfir komu hans. Hvernig stóð á því? Það kom til af því, að allr fjöldinn þekkti hann ekki, því þeir höfðu gjört sér rangar hugmyndir um hann; þeir héldu, að hann myndi koma með dýrð og veldi, með sigr yfir öllum óvinum, og hefja þjóð sína til öndvegis meðal þjóðanna. En þeir fundu ekki annað en ungbarn reifað og liggjanda í jötu; þeir fundu hógværan þjón drottins sem sagði við þá: ,,Takið sinnaskifti, því himnaríki er nálægt." Og þeir hneyksluðust á honum, af því að hann var allt öðruvísi en þeir vildu að hann væri, í stað þess að fagna yfir komu hans.

En engu að síðr var jólaboðskapr engilsins hið mesta fagnaðarefni, sem Gyðingaþjóðinni hefir nokkurn tíma boðað verið.

Síðan eru liðnar margar aldir. Og um allar þessar aldir

hefir boðskaprinn verið fluttr mönnum víðsvegar um jörðina, bæði Gyðingum, kristnum mönnum og heiðingjum.

Mörgum hefir hann verið hneyksli; þeir hafa hneykslazt á barninu himneska í jötunni; þeir hafa hneykslazt á hinum hógværa drottins þjóni; og þeir hafa lokað eyrum sínum og hjörtum fyrir honum og leitað sér fagnaðar annarsstaðar.

En þessi boðskapr hefir líka verið „fögnuðr" fyrir óteljandi menn. Milíónir manna hafa veitt honum viðtöku í trú, elskað hann sem hinn dýrmætasta sannleika, er þeir þekktu, og lofað guð fyrir hann; hann hefir verið mesta fagnaðarefni þeirra í lífinu og huggun þeirra í dauðanum.

Og nú hljómar hann aftr til vor á þessari jólahátíð, þessi blessaði boðskapr frá liðnum öldum, sem alltaf er nýr og inndæll fyrir þá, sem heyra hann með eyrum trúarinnar. Og enn er hann hinn mesti og dýrðlegasti fagnaðarboðskapr, sem mönnum hefir verið fluttr. Hann er fagnaðarboðskapr fyrir alla, sem vilja veita honum viðtöku, unga og gamla, ríka og fátæka. Það er ekki sá maðr til, sem ekki hefir þörf fyrir að heyra hann; og alla þá, sem veita honum viðtöku, gjörir hann glaða.

Það er vissulega fagnaðarefni fyrir þann, sem finnr syndasekt hvílandi á sér og veit, að dauðinn er laun syndarinnar, að vita, að „svo elskaði guð heiminn, að hann gaf sinn eingetinn son, til þess að hver sem á hann trúir glatist ekki, heldr hafi eilíft líf." Hvað getr friðað órólega samvizku eins vel og þessi opinberun hinnar óendanlega miklu náðar og miskunnar guðs við synduga menn? Hvernig gat guð sýnt syndugu mannkyni, hve heitt hann elskar það, eins vel og með þessari jólagjöf?

Það er vissulega fagnaðarefni fyrir þann, sem þráir samfélag við guð, en finnr, hve óendanlega hann er upphafinn yfir það, sem hann hefir skapað, að vita, að hann hefir sjálfr stigið niðr af himni og lifað sem maðr hér á þessari jörðu, til þess að gjöra börnum duftsins það mögulegt að nálgast sig, — að guðs eingetinn sonr vitjaði vor, íklæddr mannlegu holdi, til þess að greiða oss götu til föðursins á himnum.

Það er vissulega fagnaðarefni fyrir þann, sem ber mótlætis-kross, að vita, að enginn hefir aumkazt yfir alla mannlega eymd og sorg eins mjög og hann, sem fæddist í heim þennan til þess að ganga fyrir oss krossins og sársaukans veg, hann, sem á holdsvistardögum sínum lét engan krossbera óbœnheyrðan frá sér fara, og hefir kennt oss, að læging er vegr til upphefðar og eilífr fögnuðr uppskera tára guðs barna. Eða skyldi nokkur maðr árangrslaust biðja hann um huggun og harmabót, sem gaf það bezta, er hann átti, sinn eingetinn son, til þess að grœða sár mannkynsins!

Og það er vissulega fagnaðarefni fyrir þann, sem þráir, að guðs vilji verði hjá sjálfum sér og öðrum og vill starfa að útbreiðslu og efling ríkis hans á jörðunni, en finnr sárt til ófullkomleika síns og þess, hve seint þessu mikla verki miðar áfram og í hve miklum veikleika það er unnið,—það er vissulega fagnaðarefni fyrir hann, að nema í anda staðar hjá jötunni í Betlehem og sjá konung himnanna liggja þar sem vanmáttugt ungbarn. Hann, sem kom til þess að stofna guðs ríki hér á jörðu, hann kom ekki með dýrð og veldi, heldr í læging; og eins eru líka kjör ríkis hans hjá oss oft lítilmótleg hið ytra. En eins víst og honum er allt vald gefið á himni og jörðu, stjórnar hann kirkju sinni með máttugri hendi, og mun á sínum tíma gefa henni dýrðlegan sigr yfir öllu því, sem nú vill aftra þroska hennar og fullkomnun. Hver sem því vill, þó í miklum veikleika sé, vinna verk guðs ríkis í hans nafni, sem biðr í hans nafni: til komi þitt ríki, verði þinn vilji svo á jörðu sem á himnum, — hann skal ekki til ónýtis unnið hafa.

Já, öllum lýð hefir jólaboðskapr engilsins fögnuð að flytja; og þess vegna er hann hið mesta fagnaðarefni, sem mönnum hefir nokkurn tíma boðað verið.

Og því er það, að þegar hljómr kirkjuklukknanna berst út yfir bœi og byggðir og kallar menn saman til þess að heyra hinn mikla fagnaðarboðskap, þá fyllist sála kristins manns fögnuði og tilhlökkun, og glaðr gengr hann í hús drottins.

Og þar eru sungnir jólasálmarnir gömlu, sem hann hefir

alltaf heyrt sungna á jólunum síðan hann var barn, — þessir sálmar, sem hafa einhvern veginn allt annan blæ en allir aðrir sálmar. Þá snertast viðkvæmir strengir í sálu hans. Það eru endrminningarnar um sakleysi barnsáranna, þegar hann þekkti ekki hinar margvíslegu freistingar heimsins, — endrminningar um jólagleðina, sem hann naut í foreldrahúsum, glaðr og áhyggjulaus eins og barn. Og hann langar til að verða aftr saklaus eins og barn.

Og þegar hann svo heyrir þennan gamla og þó sí-unga boðskap um barnið heilaga, sem fæddist í Betlehem í fylling tímans, þá fyllist hjarta hans heilagri, ósegjanlegri gleði, sem hrífr hann og hefr upp yfir áhyggjur og strit hversdagslífsins; og í innilegri lofgjörð og tilbeiðslu beygir hann höfuð sitt og hjarta fyrir drottni dýrðarinnar, sem af óendanlegum kærleika sínum til vor syndugra manna gjörðist fátækr vor vegna, þótt hann ríkr væri, svo að vér auðguðumst af hans fátækt. — En þessari sælu og þessari tilbeiðslu í helgidómi hjartans fá engin orð lýst.

Honum, vorum blessaða frelsara og konungi, sé dýrð og vegsemd um aldir alda. Hann gefi öllum gleðileg jól! Amen.

---

## Skammdegið og jólin.

Eftir séra Björn B. Jónsson.

Fram undir jólin ríkir myrkrið og nóttin. Þá eru stuttir dagar, en langar nætr á þeim parti jarðarinnar, sem vér búum á. Þó er skammdegið enn meira á ættjörðu vorri, Íslandi. Vér Íslands börn höfum upp alizt í skammdegi — í margskonar skilningi.

Skammdegið hefir áhrif á lund mannsins. Margir eru þunglyndari í skammdeginu en endrarnær. Jónas Hallgrímsson kvartaði um það, að þunglyndið stríddi sérstaklega á hann í skammdeginu; þegar daginn fór að lengja, fannst honum brá af sér.

Það fólk, sem býr við mikið skammdegi, hefir meira af nóttu en degi, er oft nokkuð þunglynt. Það vantar lífsfjörið

og lífsgleðina; því nóttin er ávallt svæfandi; myrkrið deyfir mann.

Þar sem því er mikið myrkr, þarf að vera mikið af ljósi, sem stríði á móti myrkrinu, svo ekki verði lífið óbærilegt. Þess vegna eru menn alltaf að reyna að kveikja ljós í skammdegi lífsins.

Þá er skammdegið í algleymingi, þegar sorgir og öfugstreymi lífsins kvelja huga manns, en einkum þá, þegar ekki sér til sólar guðs fyrir skýjum vantrúar og synda. Það er ömurlegt að vera einn á ferð í hríðarveðrum á svörtu nóttunum núna í skammdeginu. Verra er þó að vera einmana og vonlaus andlega, og brjótast móti hríðarbyljum sálarstríðs og samvizkubits um hina dimmu nótt vantrúarinnar.

Þess vegna þrá allir ljósið.

Sumir góðir og vitrir menn eru einkennilega fávísir og barnalegir í sér, þegar þeir fara að fálma eftir andlegum ljósum. Margir menn leitast við að bera ljósið inn í sálarhíbýli sín á svipaðan hátt og gamla konan, sem ætlaði að bera sólskinið inn í húsið sitt í svuntu sinni. Líkt þessu fer þeim mönnum, sem ljósið vilja kveikja með eigin kröftum sínum og til þess vilja engin önnur ráð hafa en hugarburði sjálfra þeirra.

Svo eru menn að reyna að lýsa upp með lömpum, sem litla birtu bera. Það eru margir lampar til, en ekki mörg ljós, sem uppljóma sálu mannsins. Menntun er t. d. lampi, en hún ber ekki birtu inn í innsta herbergið í hjarta manns, þar sem guðsmynd mannsins sitr í böndum, eins og Jóhannes í myrkvastofunni. Og skynsemin er ljós, en ekki ljós, sem lýsir mannshjartanu út úr myrkri synda-ófriðarins og sýnir því frelsara.

Það er ekki nema eitt ljós til fyrir synduga mannssálina.

Þetta ljós er frelsarinn.

,,Það var hið sanna ljós, sem upplýsir hvern mann, er kom í heiminn.''

Jólin boða þetta ljós: ,,Í dag er yðr frelsari fæddr.''

Með ljós frelsarans koma jólin inn í myrkr skammdegisins. Og sjá! nóttin styttist, en dagrinn lengist um jóla-

leytið. Fyrir jólaljósinu víkr nóttin og myrkrið. Þar sem jólin komast að, þar hverfr vantrúin og þar flýr syndin. Bjartr er sá dagr, þegar vantrúin víkr og syndin er burt tekin frá manni, fyrir það að koma til frelsarans og leggja syndina honum á bak, eins og fórnarviðrinn var bundinn á bak Ísaks.

Blessuð birta er það, þegar maðr finnr sjálfr, að syndir sínar eru fyrirgefnar og maðr er elskulegt guðs barn. Blessað ljós er það, sem manni ljómar, þegar maðr kemr auga á frelsara sinn.

Jólin sýna manni svo undr vel frelsarann, frelsarann í vöggunni, frelsarann í elskunni. Og af því frelsarinn sést svo vel um jólin, þá eru jólin svo björt, svo björt, að allt skammdegið uppljómast og verðr að albjörtum dýrðardegi.

Börnin og þeir menn, sem eru hreinhjartaðir, elska ljósið. Ef vér erum barnsleg í anda og hreinhjörtuð, þá elskum vér jólin; þá segjum vér með skáldinu, sem ávallt er barn í hjarta:

,,Fyrir hálmstrá herrans jötu frá
hendi' eg öllu—lofti, jörð og sjá.''

Vér skapþungu skammdegis-börnin, Íslendingar, þurfum að fá fullkomnari jólabirtu yfir líf vort. Það þiðnar aldrei ísinn utan af andlegu lífi voru fyrr en Jesús Kristr bræðir hann,—ekki fyrr en við trúum af öllu hjarta á frelsarann.—Þessi kalda, jólalausa skynsemistrú þíðir aldrei helið af vorum ,,hjartans pól''. Vér þurfum allra manna mest að fá reglulegan jólakristindóm, og prédikun, sem er þrungin af boðskapnum um ,,fœðing guðs í heim'', og framborin er með barnslegum einfaldleik nýja testamentisins. Skammdegið og vetrar-ríkið íslenzka víkr aldrei fyrir ljóstýrum skynsemistrúarinnar; það mun aldrei víkja fyrr en barnsleg trú á Jesúm Krist gagntekr hjarta þjóðarinnar. Þá verða jól, og þá verðr bjart.

Guð gefi þjóð vorri jól trúarinnar, svo hún frelsist úr skammdeginu!

Guð gefi, að skammdegið víki nú úr hjörtum mannanna, en í staðinn komi dýrðleg jólabirta og fylli öll hjörtu.



## Dr. Abbott segir um Jesúm:

Aldrei reisti hann neitt hús; en í minning hans hafa fleiri skrauthýsi reist verið en allra annarra samtalinna í mannkynssögunni. Aldrei reit hann eina línu í músík; en meira af músík er af honum innblásið en nokkrum öðrum manni. Ekkert málverk er til eftir hann, né hefir nokkurn tíma til verið; en málara-íþróttin fœddist um leið og hann. Ekki átti hann neitt við það að semja bœkr; en af anda hans eru innblásnar ágætustu og fegrstu bókmenntirnar, sem heimrinn hefir séð. Ekkert sérstakt endrbótarverk framkvæmdi hann; en allsstaðar, þar sem kross hans hefir verið reistr upp, hefir þrældómr verið af numinn, stríðin orðið mannúðlegri, drepsóttir dvínað og dáið út. Gegnum blæju þessarar sívaxandi upplýsingar lítr kristinn maðr, og langt burtu á liðinni öld sér hann stjörnuna, sem birtan öll kemr frá, og trúir því, að í persónu hans, sem stjarnan táknar, fái hann svar upp á þetta bœnar-hróp: „Ó, að eg vissi, hvar eg get fundið guð!" Hann veit, að það, sem Kristr var, er guð. Hann veit, að Kristr er dyrnar, sem vér förum í gegnum á leið vorri til guðs—inn í hjarta guðs, og í annan stað dyrnar, sem guð fer í gegn um, komandi til vor—inn í hjörtu vor.



Fyrir einu ári var eg staddr í ‚Spítala Sakleysingjanna' í Florenz. Í rökkr-birtunni þar hékk hið fagra málverk eftir Ghirlandajo: *Austrlenzku vitringarnir tilbiðjandi barnið heilaga.* Austrheims-konungarnir með hinu glæsilega fylgdarliði sínu eru þar sýndir eftir að þeir hafa kropið niðr fyrir ungbarninu, Jesú. Á baksviðinu sáust tvær yndislegar myndir af börnum, sem klædd voru í gagnsæja búninga, er virtust vera úr hvítri ull, krjúpandi með spenntum greipum og glöðu yfirbragði. Þegar eg athugaði þær myndir betr, sá eg á hálsi barnanna rauða smábletti í líking blóðdropa, eins og væri það rúbínar í hálsbandi þeirra, og mátti af þessu ráða, að hinn gamli málari hafði ætlazt til, að myndir þessar skyldi tákna tvö þeirra saklausu barna, er dóu píslarvættisdauða í Betlehem, og að hann hafði sett þau á myndina í því skyni, að þau skyldi þegjandi opinbera hugsanir hjarta hans viðvíkjandi huggun þeirri, líkn og sáluhjálp, sem kom til hjálparlausra og þjáðra barna jarðarinnar með fœðing frelsarans. Og er eg svo með þessum inndælu hugsunum í sálu minni fór út úr kapellunni og gekk í gegn um garðsviðið víða þar fyrir utan, sem glóði í hita sumarsólarinnar, þá sá eg þar líkamlega uppfylling spádóms þess, er málarinn hafði borið fram

með myndinni. Því þar var mjúklega verið að bera eitt munaðarlaust smábarn bœjarins, aumingja, sem engan átti að, inn í hin svölu herbergi spítalans, til þess að því þar yrði veitt hin bezta og umhyggjusamasta hjúkran, sem læknisíþrótt nútíðarinnar á ráð á. Og mér virtist spítalinn útskýra myndina, og myndin útskýra spítalann. Og það rann upp fyrir mér þá, hvernig stórhýsi þetta, sem Brunellesco hafði svo meistaralega dregið upp fyrirfram, með hinum prýðilegu úthleyptu myndum á framhliðinni eftir Andrea della Robbia, og með kapellu sinni, er hefir að geyma eitt hinna göfugustu málverka eftir Ghirlandajo, hafði risið upp í allri þess unaðslegu dýrð af hinni kristnu trú og líknarhugsan silkikaupmannanna í Florenz, sem fyrir 400 árum létu reisa það til þess að vera skyldi hæli yfirgefinna og varnarlausra smælingja í nafni drottins Jesú Krists og fyrir hans sakir. Hugsjón fegrðarinnar í sálu hins listfenga málara hafði náð sér niðri á réttum stað, í líknarheimili þessu, sökum þess, að bæði sú hugsjón og það heimili varð til út af sömu guðrœknishvöt, elskunni til hins guðlega barns, Krists. Vissulega var hvortveggja sú opinberan hinnar helgu hvatar sönn og þær báðar í fullkomnu samrœmi sín á milli; og vissulega verðr það góðr dagr fyrir heiminn, þegar það samrœmi endrnýjast. Íþrótt nútíðarinnar, með hennar ljómanda útbúningi og ríka hugviti, bíðr eftir innblæstri til þess að kröftum hennar verði beitt við það, sem göfugt er. Velgjörðasemi nútíðarinnar, svo verklagin og framtakssöm sem hún er, vantar of oft fegurðartilfinning, smekk fyrir því, sem vel á við. Báða þessa ómetanlegu hœfilegleika, og hver veit, hve marga fleiri, geta menn fengið aftr, þegar hjarta hinnar efagjörnu aldar vorrar, sem enn elr í brjósti sér djúpan kærleik til trúar og sterka trú á kærleik, kemr aftr til þess að krjúpa niðr við jötuna, þar sem litla barnið heilaga opinberar elsku guðs til mannanna.—Van Dyke í riti hans *The Christ Child in Art.*

---

## Heimilið.

Eftir séra Rúnólt Marteinsson.

(Niðrlag.)

Á kristnu heimili ríkir andi þakklætis og nœgjusemi. Þetta birtist í borðbœninni og öðrum guðrœknis-iðkunum, og það kemr fram í umgengninni í heild sinni. Eins og blómið angar frá sér, vegna þess það má til, af þeirri angan, sem í

því er, eins hlýtr að koma fram í dagfari kristins manns það, sem hann geymir í hjarta sínu. Sá, sem hefir reynt frelsandi náð guðs í hjarta sínu, hlýtr í daglegri framkomu sinni að sýna þakklæti við föðurinn á himnum. Á því heimili, þar sem slíkr andi ræðr, eru menn ekki stöðugt að gefa sjálfum sér dýrðina, ekki heldr alltaf að mögla út af því, sem er öðruvísi en þeir sjálfir höfðu til ætlazt, heldr ber dagfarið vott um það, að menn kannast við, að þeir sé háðir handleiðslu hins alvísa og algóða drottins, eins og stendr í guðs orði: ,,Hvað hefir þú, sem þú hafir ekki þegið?" (1. Kor. 4, 7) og: ,,Eg hefi lært að láta mér nœgja það, sem fyrir hendi er" (Filipp. 4, 11). Sá andi, sem kemr fram í þessum orðum, gengr í gegn um kristið heimilislíf.

Þar sem hjörtun eru samtengd guði í trú, þar ríkir líka andi kærleikans; því hver sem viðrkennir, að Jesús sé guðs sonr, í honum er guð stöðuglega, og hann í guði" (1. Jóh. 4, 15); en ,,guð er kærleikrinn" (1. Jóh. 4, 8). Þar af leiðir, að þar sem sönn trú er, það er að segja verulegt lífssamband milli guðs og mannsins, þar er sannr kærleikr. Á kristnu heimili reyna menn því til með bœn til drottins um hjálp hans að yfirstíga þá örðugleika, sem eðlisfar vort skapar oss, og láta anda kærleikans ráða. En uppspretta alls þessa er samband vort við guð, trúin, eða öllu heldr guð sjálfr, því frá honum kemr öll góð og öll fullkomin gjöf (Jak. 1, 17).

En til þess trúnni verði haldið lifandi verðr hún að fá endrnœring úr guðs orði. Maðrinn verðr að lifa með guði bæði í bœnum og eins í orði hans. Bæði verðr hver einstaklingr að gjöra þetta út af fyrir sig, ganga inn í hið allrahelgasta til guðs síns daglega, og eins ætti á hverju kristnu heimili að vera einhverjar guðrœknisiðkanir fyrir heimilisfólkið sameiginlega. Mikið undr er það fagrt fyrir heimilisfólkið, sameiginlega, að byrja daginn með þakkargjörð til drottins fyrir varðveizlu hans og bœn um anda hans til leiðbeiningar og aðstoðar. Fagrt líka fyrir hjörtun, sem samtengd eru í kærleika og eignazt hafa hinn sama frelsara fyrir sálir sínar, að fœra drottni sína þakklætisfórn að kvöldi.

Því miðr eru heimili vor Íslendinga í Ameríku mjög fátœk

af guðrœknisiðkunum. Meiri hlutinn af heimilum vorum hefir engar sameiginlegar guðsþjónustur. Ef kirkjufólk af öðrum þjóðflokkum í þessari heimsálfu dœmdi oss eingöngu eftir því, myndi það álíta oss að mestu heiðið fólk. Því miðr eru kristnu heimilin vor allt of lítið frábrugðin heimilum þeirra, sem eru vantrúaðir. Á þessu þarf bót að verða, því heimilið er akr, þar sem sálir vaxa og mótast fyrir eilífa framtíð.

Um formið á heimilisguðsþjónustum er hér ekkert talað. Það má vera eins einfalt eins og hverjum sýnist. En að því er snertir bœkr, til þess hafa menn nóg tœkifœri. Menn hafa biblíuna, sálmabœkr og aðrar góðar guðsorðabœkr, og er því ekki nein minnsta afsökun fyrir því að guðs orð sé ekki um hönd haft á heimilunum. Tœkifœrin höfum vér nóg; oss skortir ekkert annað en þá löngun eftir guðs orði, sem frelsarinn talaði um, þegar hann sagði: ,,Sælir eru þeir, sem hungrar og þyrstir eftir réttlætinu, því þeir munu saddir verða.'' Ó, að vér gætum sagt með Davíð í 42. sálminum: ,,Mína sál þyrstir eftir guði, eftir þeim lifanda guði.'' Þá myndi vera meira af guðrœkni á heimilum vorum og meira af sælu í lífi voru.

Á heimilinu þurfa að vera skemmtanir.

Ásamt alvörunni er gott að sé innileg gleði. Heimilið ætti að vera skemmtilegr staðr. Menn ætti ekki að þurfa að sœkja allar skemmtanirnar út frá heimilinu; en gleði er ómissandi þáttr í lífi allra manna. Auðvitað veitir fleira gleði en svo kallaðar skemmtanir; en fyrir unga fólkið að minnsta kosti er það alveg nauðsynlegt að njóta einhverra skemmtana. Ekki heldr nein ástœða til fyrir kristið heimili að láta nokkurn drunga hvíla yfir sér. Enginn maðr hefir eins mikla ástœðu til að vera sannarlega glaðr eins og kristinn maðr. Hann hlýtr því að líta svo á, að hann eigi að njóta hins gleðiríka og skemmtilega, jafnvel í hinu stundlega, sem drottinn veitir honum. Á kristnu heimili hafa menn vissulega ástœðu til að minnast orða Páls postula í Filipp. 4. 4: ,,Gleðjið yðr ávallt í drottni; og enn aftr segi eg: gleðjið yðr.''

Auðvitað eru ekki allir menn jafn-gleðigjarnir, og krist-

indómrinn gjörir ekki eðlisfar allra manna jafnt. En einmitt fyrir þá sök getr verið hættulegt fyrir menn að dœma alla aðra á heimilinu eftir sínu lundarfari. Það er hœgt að syndga í þá átt að þvinga hina ungu of mikið. Það hefir oft komið fyrir, og hefir þá útkoman stundum orðið sú, að unglingarnir hafa hlaupið frá heimilinu eins og úr dýflissu, sökkt sér niðr í guðlausar skemmtanir annarsstaðar og tapazt.

Þetta um skemmtanir er eitt hið mesta vandamál, sem fyrir oss liggr á þessum tíma. Löngun til skemmtana hjá nærri því öllu ungu fólki er all-sterk, og það er með öllu óhjákvæmilegt að veita því einhverja skemmtun, enda mikið til af skemmtunum, sem eru til blessunar bæði líkamlega og andlega. En á hinn bóginn er þetta hættuleið, því það úir og grúir af skemmtunum, sem eru til spillingar. Sumar af þeim eru einmitt þær, sem virðast einna mest töfrandi fyrir unga fólkið, eins og t. d. dans.

Til úrlausnar þessu virðist ekki vera nema að eins eitt ráð, það, að kenna unga fólkinu að skemmta sér fallega, að koma inn hjá því réttum smekk. Sá, sem einu sinni hefir fengið smekk fyrir því, sem göfugt er og fagrt í bókmenntum og músík, er ekki líklegr til þess að leggja sig niðr að auðvirðilegu rusli. Sá, sem einu sinni hefir fengið smekk fyrir skemmtunum, sem eru fagrar og göfgandi, og fengið viðbjóð á því, sem er gróft og skaðvænlegt, er ekki líklegr til að falla fyrir freistingum siðlausra skemmtana.

Hér er þá mikilvægt verkefni fyrir heimilin. Látið heimilin vera heimkynni saklausrar og hreinnar gleði. Bjóðið Jesú Kristi inn á heimili yðar einmitt á gleðistundunum eins og brúðhjónin í Kana forðum. Takið aldrei þátt í neinni skemmtan nema þar sem þér getið beðið hann að vera með yðr. Þá kastið þér fljótt hinum ljótu og ógöfugu skemmtunum.

Af skemmtunum er engin betri eða göfugri en sönglist. En einnig og ekki sízt þar þarf menntaðan smekk, sem kann að velja það, sem fagrt er. Sé það gjört, er óhætt að segja, að það er engin ein skemmtun, sem veldr eins mikilli breyting til gleði á heimilinu eins og hljóðfœrasláttr og söngr.

Hlynnið að heimilum yðar. Látið yðr þykja vænt um þau. Leggið mikið í sölurnar fyrir þau. Reynið til þess að gjöra þau að yndislegum stað. Látið þau eignast það andrúmsloft, sem þroskar hina ungu á vegi gæfu, sem verðr sterkt afl til að halda þeim frá illu, þegar út í lífið er komið. ,,Látið Krists orð ríkulega búa hjá yðr, svo að þér með allri speki kennið hver öðrum og áminnið hver annan, sœtlega syngjandi drottni lof í yðar hjörtum.''

## Trúmálafundir í Minnesota.

Það hefir verið um nokkur ár venja safnaðanna í Minnesota, að halda trúmálafundi seint á haustin. Hafa þá oftast einhverjir af prestum kirkjufélagsins í öðrum söfnuðum komið til að standa fyrir fundunum. Í þetta sinn var það séra Rúnólfr Marteinsson í Nýja Íslandi, sem suðr kom. Hálfpartinn áttu söfnuðirnir líka von á forseta kirkjufélagsins til fundanna, en honum reyndist ómögulegt að komast að heiman um það leyti. Söfnuðunum þótti mikið fyrir, að hann ekki gat komið, en með fögnuði tóku þeir við kveðju hans og blessunaróskum, er hann sendi fundunum.

Séra Rúnólfr kom til Minneota að kvöldi dags 18. Nóv. Næsta dag (fimmtud.) var fundr haldinn í söfnuðinum í Lincoln County. Því miðr var fundr sá fremr fámennr, en til þess var sú orsök, að þresking stóð yfir hjá sumum bœndum í byggðinni. Umtalsefni á fundinum var *bœnin*. Var séra Rúnólfr málshefjandi bæði á þessum fundi og öllum hinum. Auk hans og prests safnaðarins töluðu þrír leikmenn: Pétr V. Pétrsson, Jóh. Pétrsson og Guðrún Sigvaldason.

Að kvöldi sama dags var bandalagsfundr í Minneota, og flutti séra R. M. þar erindi um íslenzkar bókmenntir.

Næsta dag að kvöldinu til var haldinn trúmálsfundr í kirkju St. Páls safnaðar í Minneota. Var hann vel sóttr. Umtalsefni var hið sama og daginn áðr í Lincoln County. Auk prestanna tveggja töluðu tveir leikmenn: Sigb. S. Hofteig og Bjarni Jones.

Daginn eftir (laugard.) var fundr í Vestrheimssöfnuði, og var hann fremr vel sóttr. Á þeim fundi var umtalsefnið *syndin*. Í umrœðunum tóku þátt, auk prestanna, þrír leikmenn: Kr. J. Vopnfjörð, Bjarni Jones og Sigb. S. Hofteig.

Sunnudaginn þar á eftir prédikaði séra Rúnólfr í tveimr söfnuðum prestakallsins, á hádegi í söfnuðinum í Lincoln

County, en um kvöldið í Minneota. Veitti hann þá einnig presti safnaðarins og nokkrum öðrum kvöldmáltíðar-sakramentið.

Að kvöldi næsta dags var almenn skemmtisamkoma haldin í Minneota fyrir forgöngu kvenfélags St. Pálssafnaðar, og var séra Rúnólfr þar helzti rœðumaðr, og talaði þá að nýju út af forn-bókmenntum Íslendinga.

Í söfnuðinum í Marshall var trúmálsfundr haldinn þriðjudagskvöldið 24. Nóv. Sá söfnuðr er mjög fámennr, en nærri allir safnaðarmenn voru viðstaddir. Umtalsefnið var hið sama sem í Vestrheimssöfnuði, *syndin*. Auk prestanna tók til máls einn leikmaðr, Jón Sigvaldason.

Næsta dag hélt séra Rúnólfr Marteinsson á stað heimleiðis, eftir að hafa unnið mikið og fagrt verk hér syðra. Honum fylgdi innilegt þakklæti og einlægar fyrirbœnir brœðranna í Minnesota.

B. B. J.

Nýja testamentið íslenzka, sem hr. Fr. H. Jones hefir látið gefa út og fengið hr. Halldóri S. Bardal til útsölu meðal Vestr-Íslendinga, er með tvennskonar myndum. Önnur tegund myndanna er með mörgum litum, og er sérstakt blað fyrir hverja þeirra. Þær eru alls 20. Hinar allar, 38 að tölu, eru dökkar; tvær og tvær þeirra á blaði, önnur framan á blaðinu, hin aftan á. Hinar fyrrnefndu, skrautprentuðu, eru þessar: Betanía við Olíufjallið, Austrlenzkt íbúðartjald, Jerúsalem, Austrlenzkr kennari, Austrlenzkr vegr, Borgarhlið, Sólsetr, Stræti í Jerúsalem, ,,Bróðir hans var á akri" (Lúk. 15, 25), Davíðsturn í Jerúsalem, Sikkem, Á ferð í Arabíu, Aþenuborg, ,,Eg beygi kné mín" (Efes. 3, 14), ,,Stjarna er stjörnu bjartari" (1. Kor. 15, 41), Sá sem plœgir, Korinþuborg, Fjársjóðir Egyptalands, Eyjan Patmos, Austrlenzkr fjárhirðir.—Dökk-prentuðu myndirnar eru þessar: ,,Biðjast fyrir á strætum" (Matt. 6, 5), Borð peninga-víxlara (21, 12), ,,Sá sem er á húsþaki" (24, 17), Þvottr á kerum, könnum og borðbekkjum (Mark. 7,4), Gefa vatnsdrykk vegna Krists (9, 40), Við Genesaret-vatn—fiskimennirnir þvo net sín (Lúk. 5, 1. 2), ,,Þér bindið mönnum lítt bærar byrðar" (11, 46), ,,Hún kveikir ljós, sópar húsið og leitar vandlega" (15, 8), ,,Hver sem drekkr af þessu vatni" o.s.frv. (Jóh. 4, 13), Uppskera, Fiskimenn við Tíberías (21, 1), ,,Út til árinnar" (Pg. 16, 13), Tjaldgjörðarmenn, ,,Leiða lærisveinana afvega" (20, 30), ,,Spyrna móti broddunum" (26, 14), ,,Uppfrœddr af lögmálinu" (Róm. 2, 18), Leirsmiðrinn (9, 21), ,,Sá sem plantar og sá sem vökvar" (1. Kor. 3, 8),

Konur í samkunduhúsi (11, 10. 13), Innsigla bréf (2. Kor. 1, 22), Borgarveggr—Damaskus (11, 32. 33), ,,Lítið súrdeig sýrir allt deigið" (Gal. 5, 9), ,,Styðjið þá, sem veikir eru" (1. Tím. 5, 14), ,,Hvernig menn heilsast í austrlöndum (1. Tess. 5, 26), Fyrirrennari í austrl. (Hebr. 6, 20), ,,Ráfuðu um fjöll og óbyggðir" (11, 38), Banías, uppspretta Jórdanar, Vínpressa troðin.

Auk myndanna, sem hér eru taldar, eru uppdrættir, marglitir og skýrir, á tveimr blöðum af landinu helga (á Krists tímum og dómara-tíðinni) og löndum þeim, sem Páll postuli ferðaðist um í kristniboðserindum.

Að því er textann snertir, er þetta nálega óbreytt endrprentan nýja testamentisins ísl., sem brezka biblíufélagið gaf út í Oxford 1866. Hr. Jones hefir að tilmælum vorum góðfúslega bent oss á alla staðina, þar sem eitthvað hefir verið breytt til í þýðingunni. Slíkar breytingar eru um 50, en lang-flestar eru þær mjög smávægilegar, og þó yfir höfuð til bóta, sumar að eins leiðréttingar á prentvillum. Vér höfum all-vandlega gætt að þeim öllum.

Nýja testament þetta er mjög hentug og prýðileg jólagjöf.

Verð bókarinnar er 50 cts., í dýrara bandi \$1.20, í enn dýrara bandi \$1.75; án mynda, en með landabréfunum 40 cts.

---

Dr. Henry Clay Trumbull í Philadelphia andaðist 8. Des. Hann var ritstjóri blaðsins ,,SundaySchoolTimes" síðan 1875 og gjörði það að merkasta tímariti sunnudagsskólamálinu til stuðnings, sem til er. Hann var ágætr rithöfundr. Af hinum mörgu ritverkum, sem eftir hann liggja, skulu að eins nefndar bœkrnar ,,Kadesh-Barnea" og ,,Teaching and Teachers". Hin fyrrnefnda bóka þessara segir frá því, hvernig höfundrinn árið 1881 fann Kades Barnea, meginstöð Ísraelsmanna á eyðimerkrför þeirra suðr frá landinu fyrirheitna. Hin síðarnefnda bók hefir að geyma frábærlega góðar leiðbeiningar fyrir sunnudagsskólakennara.

---

Hr. Ólafr S. Thorgeirsson, 644 William Ave., er féhirðir ,,Sameiningarinnar."



,,SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið ,,Kennarinn" fylgir með ,,Sam." í hverjum mánuði. Ritstjóri ,,Kennarans" er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins \$1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa ,,Sam.": 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—

Útgáfunefnd: JÓN BJARNASON, (ritstj.), FRIÐRIK J. BERGMANN, ÓLAFR S. ÞORGEIRSSON, N. STEINGRÍMR ÞORLÁKSSON, PÉTR HJÁLMSSON, WILHELM H. PAULSON, HALLDÓR S. BARDAL.

Prentsmiðja Lögbergs.—Winnipeg.